# MINNILEGUR

# FERMINGARDAGUR.

## FORELDRAGJÖF

Á

## FERMINGARDEGI BARNA.

FRÁ

ÁBYRGÐARMANNI ÞJÓÐÓLFS.



**Reykjavík.**

Prentaður í prentsmiðju Íslands

1851.

## Óskemmtileg hvítasunnu-nótt.

Það var aðfangadagskveld eitt fyrir hvítasunnu, að prestur nokkur kom út úr kirkju sinni með 10 börnum, sem hann hafði verið að búa undir fermingu daginn eptir, og gekk með þeim inn í bæ. Hann býður þeim góðar nætur í bæjardyrunum, og segir: „Farið nú að hátta, börn mín góð! en biðjið guð að koma til yðar, og gefa yður náð til að hugfesta það, sem jeg hef talað fyrir yður“. Síðan gekk prestur til stofu, en börnin fóru að hátta. Það var þegar komið langt af sólarlagi, og allir voru komnir í svefn á prestssetrinu, nema gamall maður einn. Hann stóð aðfangadagskveld þetta úti í bæjardyrum, og horfði döprum augum ýmist upp í himininn, sem var hreinn og heiðskír, og ýmist niður á

jörðina, sem var íklædd inndælum búningi vorsins; hann var aleinn á ferli á bænum, hugsjúkur og angurvær, og gat ekki sofið. Maðurinn var mjög hrumur, og þegar kominn að fótum fram. Hafði hann ekki yfir annað að líta eptir æfi sína, en synd og sjúkleika; því að nú stóð hann uppi með tærðum líkama og tómlátri sálu, særðu hjarta og svívirtri elli. Hin fögru æskuár hans stóðu honum fyrir hugskotssjónum, eins og apturgöngur, og vöktu honum minni um hinn blíða dag, þá er faðir hans leiddi hann í fyrsta sinni út að gatnamótum lífsins, þar sem sæluvegur dyggðarinnar tekur við til hægri handar, og liggur inn í land friðarins, sem fullt er af aldinum og englum; og þar sem ófærur lastanna taka við til vinstri handar, og liggja inn í dimman helli, sem fullur er af drjúpandi eitri og ófrýnilegu illyrmi. Þar sem hann nú stóð þarna, þá var eins og illyrmið biti hann í brjóstið, og eiturdroparnir límdust utan um tungu hans, svo að hann vissi gjörla hvar hann var að kom-

inn. Maðurinn gleymdi þá sjálfum sjer, og hrópaði með sárri hjartans angist: „æ, faðir minn, leiddu mig aptur fram að gatnamótunum, svo að jeg geti valið um að nýju, og valið betur!“ En bæði var faðir hans og æska fyrir löngu undir lok liðin. Hann sá eldingu bregða fyrir úti í kirkjugarðinum, og hverfa milli leiðanna. Þá sagði hann: „þetta eru æfidagar mínir, sem jeg hef alla lifað í fásinnu!“ Hann sá eins og stjörnuhrap í lopti, hversu stjarnan blikaði í því hún hrapaði, og leið í hvarf. „Þarna sje jeg sjálfan mig!“ sagði hann þá með særðu hjarta; og illyrmið beit hann því fastara og sárara í brjóstið. Af hugarburðinum, sem hann gjörði sjer út af þessu, fór hann nú að sjá ofsjónir. Honum sýndust einlægar vofur flögra til og frá um kirkjugarðinn, og sumar enda slæðast heim á hlaðið. En í þeim svifum heyrir hann eins og söng, og virtist honum vera tekið til messu; sjer hann börnin ganga prúðbúin í kirkju. Það glaðnaði þá nokkuð yfir honum, hann leit út í blá-

inn, og hugsaði til æskuvina sinna, sem áttu nú við sælli kjör að búa , en sjálfur hann, og gátu fagnað degi þessum með gleði og ánægju. „Æ, jeg hefði líka getað sofið þessa nótt“, sagði hann við sjálfan sig,“ án angistar og trega, ef jeg hefði sjálfur viljað; jeg hefði getað verið lánsmaður, og glaður í anda, eins og börnin þessi, ef jeg hefði gefið gaum að áminningum yðar og aðvörunum, ástkæru foreldrar!“ Meðan að hann þannig rifjaði upp fyrir sjer æsku sína, eins og utan við sjálfan sig, virtist honum ekki betur, en ein vofan bregða sjer í mynd hans og líkingu, og verða þegar að lifandi ungmenni. Og myndin kom storkandi framan að honum, og sýndi honum sjálfan hann, eins og hann var á bezta aldri. Hann gat ekki horft á þessa sjón, byrgði fyrir augu sjer, og út hellti brennheitum tárum. Hann andvarpaði í örvæntingu og sinnuleysi: „já, komdu aptur! æ, kom þú aptur, æska mín!“

Og maðurinn hitti óskastundina; æska hans kom aptur; því að nótt þessa hafði

hann dreymt svona hryllilega. Hann var enn í æskublóma lífsins; því að þetta var einn af drengjunum, sem áttu að fermast, en kviklátur mjög og gjálífur, svo yfirsjónir hans höfðu í rauninni ekki verið neinar draumsjónir. Þegar hann vaknaði var hann allur í einu kófi, fór þegar á fætur, og gekk út til að kæla sig. Varð honum reikað út í kirkjugarð að leiði móður sinnar; þar kraup hann niður, og þakkaði guði með heitum tárum fyrir þá vísbendingu, sem hann hafði gefið honum í svo tækan tíma, til þess að snúa aptur á rjetta leið.

En snú þú líka aptur, æskumaður! ef eins stendur á fyrir þjer og honum; því að, ef þú eldist í hinu illa, þá skal þig hitta í vökunni það, sem hann hrelldi í svefni; og þó að þú þá kallir: „kom þú aptur, fögur æska!“ þá bíður það, að hún komi.

# Verndarenglar æskumannsins á vegi dyggðarinnar.

## 1. *Guðhræðsla.*

Einn er guð, höfundur alls, stjórnari og viðhaldari heimsins, almáttugur, eilífur og órannsakanlegur.

Sólin er ekki guð sjálfur, en hún er fegursta eptirmynd hans. Hún lýsir heiminn með ljóma sínum, og veitir grösum jarðarinnar vöxt og þroska með hlýindum sínum. Skoðaðu hana sem handaverk guðs, og undrastu yfir því mikla smíði; en eigi skaltu tilbiðja hana.

Honum, sem einn er æðstur, alvitur og algóður, ber guðdómleg tilbeiðsla, lofgjörð og þakkargjörð.

Honum, sem myndaði himininn með

hendi sinni, og mældi stjörnunum veg með fingri sínum.

Sem setti skorður fyrir hið ómælandi haf, er það eigi getur yfir komizt, og segir við ofsavindana: verið þið hægir! Sem hrystir jörðina, og allar kynkvíslir skjálfa; sem sendir út eldinguna, og allir óguðlegir skelfast.

Sem gaf heiminum tilveru með orði síns munns, og þarf ekki annað en snerta hann með armlegg sínum, til að afmá hann aptur.

„Berðu lotningu fyrir hátign hins almáttuga, og baka þjer eigi reiði hans, svo að hann ekki tortýni þjer!"

Forsjón guðs vakir yfir öllum sköpuðum hlutum, og hann stjórnar þeim með óendanlegri speki.

Hann hefur sett viss lög, er hann stjórnar heiminum eptir; hann hefur haft við dásamlega margbreytni á öllum lifandi skepnum; og sjerhverri gaf hann það eðli, sem honum líkaði.

Í honum eru fólgnir allir fjársjóðir

vizkunnar, og leyndardómar hins ókomna liggja berir fyrir honum.

Hugsanir hjarta þíns blasa fyrir augliti hans; og hann sjer hlutinn fyrir, áður en hann er áformaður.

Alvizka hans sjer yfir allt, og forsjón hans ræður fyrir öllu, svo enginn hlutur verður af hendingu.

Aðdáanlegur er hann á öllum vegum sínum; ráð hans eru órannsakanleg, og speki hans skilningi þínum of vaxin.

„Veittu þess vegna vísdómi hans heiður og lofdýrð, og beygðu þig fyrir skipunum hans með auðmjúkri og sonarlegri hlýðni!“

Drottinn er miskunsamur og góðgjarn; hann hefur skapað heiminn af einskærri náð.

Gæzka hans skín í öllum hans verkum; hann er höfundur alls, sem ágætt er, og fullkomnari en allt, sem fullkomið er.

Skepnurnar, sem hann hefur skapað, bera ljósast vitni um gæzku hans, og allar unaðsemdir þeirra kunngjöra hans lofgjörð; hann skreytir þær með fegurð, seð-

ur þær á fæðu, og við heldur þeim frá kyni til kyns.

Ef vjer upp lyptum augum vorum til himins, hversu ljómar þá ekki dýrð hans þar! Ef vjer rennum þeim aptur niður á jörðina, sjáum vjer, að hún er full af hans gæzku. Hálsar og dalir bergmála af lofgjörð hans; grundin, árnar og engjarnar syngja af fögnuði.

En þjer hefur hann veitt, maður! miskun sína mesta, og sett þig ofar öllum dýrum.

Hann gaf þjer skynsemina, svo að þú gætið haldið tign þinni; hann gæddi þig málfærinu, svo að þú gætir verið nytsamur í mannlegu fjelagi; og hann veitti sálu þinni íhugunarafl og greind, svo að þú gætir skoðað fullkomlegleika hans, og tignað hann fyrir þá.

Og lögin, sem hann ætlaðist til, að þú skyldir laga breytni þína eptir, hefur hann svo náðarsamlega til búið, að öllum þínum skylduverkum er hagað eptir eðlisfari þínu, svo að hlýðnin við boð

hans er vegur til þinnar eigin vellíðunar.

„Æ, vegsama gæzku hans með lofsöngum, og skoða í einrúmi undrunarverk hans miskunar! Láttu lofgjörð og þakkargjörð streyma út frá hjarta þínu! Láttu málið þíns munns fram bera það honum til dýrðar, og láttu allar athafnir þínar bera vitni um hollustu þína við skipanir hans!“

Drottinn er heilagur og rjettlátur; hann mun dæma heiminn rjettvíslega og sanngjarnlega.

Hafi hann sett lög sín öll af miskun og gæzku, skyldi hann þá ekki hegna yfirtroðslumönnunum!

Hugsaðu ekki, barn! að hönd guðs nái ekki til þín fyrir það, þó að hegningin bíði; og hræsna ekki fyrir þjer með þeirri von, að hann muni sjá í gegnum fingur við illverk þín!

Auga hans grannskoðar leyndardóma sjerhvers hjarta, og hann gleymir þeim ekki að eilífu; hjá honum er ekki heldur manngreinarálit.

Æðri og lægri, ríkir og fátækir, vísir og fávísir skulu allir jafnt, þegar sálin er orðin laus við þessa þungbæru líkamsfjötra, fyrir dómstóli guðs fá rjettvís og eilíf gjöld athafna sinna.

Þá skal hinn óguðlegi skelfast og kvíða; en hjarta hins rjettláta skal fagna dómi sínum.

„Óttastu þess vegna drottinn alla þína æfidaga, og gakk á þeim vegi, sem hann hefur vísað þjer á!"

Þá skaltu verða lánsmaður hjer í lífi, og hólpinn og sæll annars heims.

## 2. *Íhugun.*

Stikktu hendinni í barm þinn, maður! og íhugaðu, hvers vegna þú ert skapaður.

Skoðaðu kosti þína og ókosti, og þá stöðu, sem þú ert í á jörðunni; þá skulu ekki leyna sjer fyrir þjer skyldur þínar í lífinu, og þú skalt eiga að vísan leiðarvísi í öllum athöfnum.

Byrjaðu ekki á neinu tali, og ráðstu ekki í nokkurt verk, fyr en þú ert búinn

að íhuga orð þín, og skoða, hve áríðandi hvert atvik er, sem fyrir liggur; þá skal ólán aldrei yfir þig koma, og blygðun aldre á bæ þinn sækja.

Angur skal ekki óspekja þig, og sorg ekki á svip þinn setjast.

Gálaus maður hefur ekki taumhald á tungu sinni; hann eys orðum út í bláinn, og hefur slys af heimskumælgi sinni.

Sá maður, sem flanar að verki, áður en hann hefur íhugað afleiðingarnar, er eins og gapinn, sem stökkur yfir garð, og fellur niður í sýkið, sem er hinumegin, og hann gáði ekki að.

Hlýddu því röddu forsjállar íhugunar! ráð hennar eru viturleg og holl, og för hennar liggja til friðar og farsældar.

## 3. *Lítillæti.*

Hvað hugsar þú, maður, að treysta hyggjuviti þínu? eða því stærir þú þig af fræknleik þínum?

Það er upphaf vizkunnar að þekkja vankunnáttu sína; og viljir þú, að aðrir

virði þig, þáláttu ekki sjá til þín þá heimsku, að þú þykist af viti þínu!

Eins og prjállaust fatasnið fer bezt á fallegri konu, svo er kurteys hegðan mesta prýðin á vitrum manni.

Sannleikurinn skýrist í munni hins kurteysa; og af því að hann varast að fullyrða nokkuð, er honum síður láð, þó honum verði á í orði.

Hann treystir ekki eigin hyggjuviti; hann leitar ráða til vinar síns og hefur gott af.

Hann vill ekki heyra hól um sjálfan sig, og getur ekki trúað því; og seinast verður hann sjálfur til að finna kostina í fari sínu.

En eins og höfuðblæjan skreytir fagurt andlit, eins fegrast mannkostir hans við skýlu þá, sem kurteysin breiðir yfir þá.

Skoðaðu aptur á móti þann, sem er hjegómlegur, og virtu vel fyrir þjer hinn mikilláta! hann er allur prúðbúinn, riksar fram og aptur, skoðar sig í krók og kring, og vill, að aðrir horfi á sig.

Hann er hnakkakertur, og lítur ekki við aumingjanum; hann svífist einkis við

þá, sem hann á yfir að segja; en er aptur af yfirmönnum sínum hafður að háði fyrir drambið og heimskuna.

Hann skeytir ekki neitt um annara álit, heldur þykir það allt bezt, sem sjálfur hann hugsar, og hefur svo minnkun af öllu.

Hann er þrútinn af hjegómlegum hugarburði; og það er yndi hans, að heyra aðra tala, og tala sjálfur um sig allan daginn.

Með græðgi gleypir hann við eigin hóli, og smjaðrið etur hann út á húsgang.

## 4. *Iðjusemi.*

Þar eð sú stund, sem liðin er, hverfur aldrei aptur, og óvíst er, hvort þú lifir þá næstu, sem kemur, þá vertu svo hygginn, maður! að hagnýta þá stundina, sem yfir stendur, og gjörðu hvorki að trega þá, sem liðin er, nje treysta þeirri, sem í hönd fer.

Þú átt það augnablikið víst, sem er; en hið næsta er fólgið í ókomnum tíma, og

þú mátt ekki vita, hvað það kann að hafa í för með sjer.

Það sem þú hefur áformað að gjöra, þá gjörðu það undir eins; fresta því ekki til kvelds, sem mátti af ljúka að morgni.

Iðjuleysið fæðir af sjer skort og armæðu; en af dáð og dugnaði sprettur ánægja.

Hönd hins iðjusama hrindir burt örbyrgð; heppni og hamingja eru förunautar atorkumannsins.

Hver hefur safnað auðlegð? hver komizt í upphefð? hverjum er hælt af alþýðu? hverjum virðing veitt af tignum mönnum? hverjum nema þeim, sem rekið hefur iðjuleysið á dyr, og sagt hefur við letina: þú ert vesti óvinur minn!

Hann rís árla úr rekkju, og gengur seint til hvílu; hann æfir sálina með íhugun, og líkamann með erfiði, og er heill heilsu á hvoruteggja.

Letinginn er sjálfum sjer til leiðinda; hver stundin liggur á honum eins og torfa: hann drattar úr einum stað í annan, og veit ekki sjálfur hvað hann vill.

Dagar hans líða hjá, eins og þá er skuggi af skýjum líður yfir; þar sjást engar menjar eptir.

Líkami hans veslast upp af erfiðisleysi; hann langar til að hreifa sig, en hefur ekki þrótt í sjer, til að komast úr sporunum. Skilningur hans er sljór og skynsemi myrkvuð. Hann vill fræðast, en nennir ekki að læra. Hann langar í kjarnann, en vill ekki hafa fyrir því, að brjóta í sundur hnotina.

Á heimili hans fer allt fram með óstjórn: hjúin eyða og svalla. Sjálfur steypist hann á höfuðið út á húsgang. Hann sjer hann fyrir augunum, og honum hljómar hann fyrir eyrunum; hann hrystir höfuðið, og óskar, að það væri öðru vísi, en hefur þó engin úrræði; svo húsgangsvolæðið kemur yfir hann, eins og hvirfilbylur, og hann hnígur með minnkun og gremju í gröfina.

## 5. *Keppni.*

Ef hjarta þitt girnist heiður, af eyrum

þínum er ánægja í hóli, þá lyptu þjer upp frá moldinni, sem þú ert myndaður úr, og settu þjer fyrir sjónarmið eitthvað, sem er lofsvert.

Eikin, sem breiðir nú hríslur upp í hálopt, var einu sinni lítið akarn niðri í moldinni.

Kostaðu kapps um að vera mestur, í hverri stöðu sem þú ert, og láttu engan hafa yfirburði yfir þig í neinu, sem gott er. Samt máttu ekki öfunda aðra af ágæti þeirra, heldur skaltu efla eigin atgjörfi.

Það skaltu líka varast, að niðra keppinaut þínum með nokkru ósæmilegu eða svívirðilegu móti; reyndu heldur til að hefja sjálfan þig yfir hann, þó ekki með öðru en því, að verða honum fremri; þá skal keppni þín um yfirburðina krýnast með heiðri, ef ekki með hamingju.

Heiðvirð keppni lyptir sálunni upp; því að sá, sem leitar heiðurs, er allur á lopti, eins og hestur á skeiði.

Hann vex eins og pálmaviður þrátt fyrir allar mótspyrnur; hann hefur sig í hálopt, eins og örnin upp til himinhæða, og

hann festir augun á ljómandi geislum sólarinnar.

Draumsjónir hans á nóttunni eru eptirdæmi ágætra manna; og það er yndi hans á daginn, að feta í fótspor þeirra.

Hann áformar ekki nema það, sem nokkuð er í varið, og hefur ekki ánægju af öðru, en afreka eitthvað mikið; enda fer hróður hans fjalls og fjöru á milli.

En hjarta hins öfundsjúka er gall og beiskja, tunga hans spýr eitri; og hamingja nágrannans heptir rósemi hans.

Hann kúrir heima og hefur enga elju; honum svíður það, ef öðrum gengur vel; hatur og illgirni eta hjarta hans, svo að hvergi er honum rótt.

Sjálfur finnur hann enga löngun til góðs í hjarta sínu, og ætlar svo aðra eptir sjer. Hann reynir til að rýra þá, sem honum eru meiri, og leggja út á verri veg allar athafnir þeirra. Hann situr sífelt á svikráðum, og hefur illt í huga, enda hafa allir andstyggð á honum. Og loksins fer

fyrir honum, eins og kongulónni, sem hengir sig í sínu eigin neti.

### 6. *Forsjálni.*

Hlýð þú röddu forsjálninnar; gef gaum að ráðum hennar, og fest þau þjer í huga. Heilræði hennar eru öllum holl, og allar dyggðir styðjast við hana, eins og stoð. Hún er æðsti förunautur og bezti leiðtogi mannlegs lífs.

Hafðu taum á tungu þinni, og geymdu varir þínar vandlega, svo ekki raski orð þín rósemi þinni.

Sá sem hæðir hinn halta, hann gæti sín, að hann eigi haltri sjálfur. Sá sem hefur yndi af, að bera út bresti annara, hann skal með kinnroða heyra talað og rætt um sína eigin.

Af mælgi kemur angur og eptirsjá; en fyrir þögn þarf ekki að iðrast.

Málugur maður er kvöl á bæ; eyrun þreytast af mælgi hans, og málæðið í honum heptir alla samræðu.

Stær þig ekki af sjálfum þjer, því að

það er þjer til minnkunar. Hæð ekki heldur neinn, því að það er hættulegt.

Meinlegt gaman er eitur í vináttu; og sá sem ekki hefur taumhald á tungu sinni, skal taka ófrið í heimgjald.

Vertu þjer út um öll notaleg þægindi, eins og hæfir stöðu þinni; en set ekki aleigu þína í þau, svo að hyggindi þín á yngri árum geti huggað þig í ellinni.

Ágirnd er rót alls ills, en sparsemi er sannur dyggðavörður.

Láttu þín eigin störf sæta allri athygli þinni, en vertu ekki hnýsinn um annara efni.

Láttu ekki skemmtanir þínar vera þjer dýrkeyptar, svo að fyrirhöfnin fyrir þeim fargi ekki fögnuðinum af þeim.

Láttu ekki heldur meðlætið myrkva auga forsjálninnar, nje gnægtina afsníða hönd sparseminnar. Sá sem eltir um of allsnægtir lífsins, skal kenna á skorti á nauðsynjum þess.

Trúðu varlega nokkrum manni, fyr en

þú hefur reynt hann; og tortrygg engan orsakalaust, því að það er illmannlegt.

En þegar þú hefur fundið vænan vin, þá geymdu hann í hjarta þínu, eins og fjesjóð, og álít hann öllum dýrgripum betri.

Þigg enga gáfu af eigingjörnum manni, og bitt ekki vináttu við óvandaða; því að það yrði snara fyrir dyggð þína, og leiddi sorg í sálu þína.

Hafðu ekki þann hlut í dag, sem þú verður að vera án á morgun; og slepptu því ekki við blinda hendingu, sem þú getur fengið með fyrirhyggju, eða fyrir byggt með forsjálni.

Lærðu hyggindi af reynslu annara, og láttu yfirsjónir þeirra lagfæra bresti þína.

Þó skaltu ekki ætíð vænta þjer ugglausrar heppni af forsjálninni; því að dagurinn veit ekki, hvað nóttin hefur að geyma.

Heimskinginn er ekki altjend hamingjulaus, og hygginn maður ekki æfinlega heppinn; en aldrei sá jeg heimskingjann algjörlega glaðan, og aldrei heldur hygginn mann með öllu hamingjulausan.

## 7. *Stöðuglyndi.*

Hættur, slys, skortur, mæða og ójöfnuður er hlutfall sjerhvers manns, sem í heiminn kemur.

Brynja þess vegna sálu þína snemma með hugrekki og þolinmæði, svo að þú getir með stöðuglyndi borið þann armæðuskerf, sem þjer er ætlaður.

Eins og vinnudýrið erjar, þolir hita, hungur og þorsta, og gefst ekki upp, eins byrjar hugprúðum manni að sýna dáð og dug í hættum og þrautum.

Veglynd sál setur ekki fyrir sig mislyndi lukkunnar, og hugprúður andi getur ekki yfirbugast af því.

Farsæld hans er ekki komin undir brosi hennar, og þess vegna getur ekki heldur óblítt útlit hennar hrætt hann.

Hann stendur stöðugur, eins og kletturinn í sjónum, sem bifast ekki, þó að bylgjurnar skelli á honum.

Hann reisir höfuðið, eins og hervirki á háum hól, og skeyti ógæfunnar falla máttlaus niður fyrir fætur honum.

Á hættustundinni eflir hugrekkið hann, og stöðuglyndið frelsar hann.

Spaklyndi hans ljettir undir mæðubyrðina, og þolinmæði hans ber hana til enda.

Hann gengur á móti raunum lífsins, eins og hermaður út í bardaga, og víkur heim aptur sigrihrósandi.

En á huglausum manni og hræddum skellur vanvirðan hlífðarlaust.

Hann gugnar undir fátæktinni, og sökkur svo niður í fyrirlitningu; og sæti hann ójöfnuði, þá kallar hann líka yfir sig háðungina.

Eins og vindblærinn skekur skjálfandi reyr, eins vekur mæðuskugginn honum titring og skjálfta.

Á hættustundinni er hann ráðalaus og ringlaður; á degi neyðarinnar hnígur hann niður, og örvænting yfirbugar sálu hans.

## 8. *Hófsemi.*

Það getur þú komizt farsældinni næst hjer á jörðu, ef guð gefur þjer góða heilsu, viturt hjarta og ánægt geð.

Ef þú vilt eignast þessa blessun, og geyma hana til elli-áranna, þá varastu freistingar munaðarins, og flýðu undan ginningum hans.

Þegar hann fram reiðir kræsingar sínar á matborðið, og lætur vínið iða í staupunum; þegar hann svo brosir upp á þig, og býður þjer til gleði og glaðværða, þá er hættan fyrir hendi; láttu þá skynsemina halda árvakran vörð.

Því að hlýðir þú orðum fjandmanns hennar, þá dregur hann þig á tálar og leiðir afvega.

Glaðværðin, sem hann lofar þjer, verður að æði, og nautnin sjálf að sótt og dauða.

Líttu í kringum matborð munaðarins, og renndu augum á borðgestina; virtu þá fyrir þjer, sem hafa látið bros hans ginna sig, og hlustað hafa á táldrægni hans. Eru þeir ekki veiklulegir og tærðir? Hefur ekki fjör og glaðværð frá þeim vikið?

Stundirnar, sem þeir hafa lifað í bílífi, eru stokknar á burt í skyndi, en aptur fallnir á fyrir þeim leiðindadagar, fullir

sorg og gremju. Þeir hafa spillt matarlyst sinni, svo að nú falla þeim ekki lengur beztu kræsingar. Munaðurinn hefur þar unnið á eigin vinum, munaðarmönnunum, eins og maklegt er; því að þannig hefur guð hagað eðli hlutanna þeim til hegningar, sem hafa í óhófi gáfur hans.

En hver er sú, sem þarna gengur, svo fögur á velli og fríð á svip?

Blómarós bíður á kinnum hennar, og leiptur morgunroðans leikur um varir hennar. Gleðin, sakleysið og siðprýðin skína út úr henni; og af glaðværum anda kveður hún, þar sem hún gengur.

Heil sjertu, Heilsa! Það er nafn hennar. Hún er dóttir Iðjandans, sem gat hana við Sparseminni. Synir þeirra búa optast í afdölum og á fjöllum uppi.

Þeir eru hugaðir, starfsamir, glaðir, og hafa allir nokkuð af fríðleika og atgjörfi systur sinnar.

Afl þenur út sinar þeirra, styrkleiki býr í vöðvunum; og það er ánægja þeirra að vinna allan daginn.

Störf föður þeirra vekja þeim hungur, og máltiðir móður þeirra veita þeim saðning. Það er ánægja þeirra, að kefja niður skaplesti, og heiður þeirra, að leggja af vondan vana.

Skemmtanir þeirra eru hóflegar, og þess vegna varanlegar; svefn þeirra stuttur, en fastur og vær.

Blóð þeirra er fjörugt og lundin glaðvær; læknirinn ratar ekki heim að bæjum þeirra, og lausir eru þeir allra mála við lyfsölumenn.

En börnum mannanna er aldrei borgið; þau skulu ætíð eiga í vök að verjast. Bæði eru þeim búnar hættur utan að, og svo vakir svikarinn inni fyrir hjá sjálfum þeim, til að fella þau.

Heilbrigði þeirra, styrkleiki og fríðleiki hefur kveykt upp í hjörtum þeirra girnd til lausungar.

Hún stendur sjálf í laufskála sínum, vekur athygli þeirra, sem um veginn fara, og stráir út frá sjer freistingum.

Hún er lipur í limalaginu, lagleg á svip-

inn og lausakonuleg í látæði. Ljettúðin talar í augunum, og losæðið leikur á brjóstunum. Hún bendir þeim með fingrinum, ginnir þá með augnaráðinu, og hænir þá að sjer með tályrðum.

Æ, flýðu undan freistingum hennar, og stikktu upp í eyrun á þjer við hyllingarmáli hennar.

Ef þú lítur í girndaraugu hennar, ef þú hlustar á freistingarröddn hennar, ef hún leggur hendur um háls þjer, þá fjötrar hún þig æfilangt í hlekki og vansa. Sjúkleiki, skortur, áhyggja og eymd er þá ekki langt undan landi.

Ljemagna og dáðlaus af ólifnaði, þróttlaus og duglaus af iðjuleysi skaltu missa afl úr köglum, og atgjörfi líkamans. Dagar þínir skulu verða fáir og daprir, áhyggjur þínar óteljandi, og enginn skal sjá aumur á þjer.

## *9. Nægjusemi.*

Gleymdu því ekki, maður, að staða þín hjer á jörðunni er ákvörðuð af speki hins

Eilífa, af honum, sem þekkir hjarta þitt, sjer þínar hjegómlegu óskir, og synjar þjer opt af náð um bænir þínar.

En gæzka hans hefur svo hagað hlutunum, að líkindi eru til, að allar skynsamlegar óskir geti fengizt, öll heiðarleg áform heppnazt.

Skoðaðu orsökina til órósemi þeirrar, sem þú býrð yfir, til ógæfunnar, sem þú harmar af; það er þín eigin heimska, drambsemi og spilltur hugarburður.

Mögla þess vegna ekki undan álögum guðs, heldur lagfærðu hjarta þitt; og segðu aldrei við sjálfan þig: „hefði jeg auðlegð, væri jeg voldugur, ætti jeg náðuga daga, þá skyldi jeg vera sæll!“ því vittu það, að einnig þeir, sem eiga þessu að hrósa, hafa hver upp á sinn máta sína byrði að bera.

Fátæklingurinn hefur ekki að segja af umsvifum og áhyggjum auðmannsins; það reynir ekki á hann vandinn, sem vegsemdinni fylgir; hann veit ekki, hvað er leti nje leiðindi, og kvartar þess vegna ekki yfir kjörum sínum.

Öfundaðu ekki heldur neinn, þó að hann þyki aldrei svo sæll; þú þekkir ekki hinar heimuglegu sorgir hans.

Að vera ánægður með lítið, er hin æðsta vizka; sá sem hrúgar að sjer auðæfum, hleður um leið á sig áhyggjum; en nægjusöm lund er fólginn fjesjóður, og viss vörn á móti öllum óskunda.

Ef þú lætur samt ekki smjaður lukkunnar svipta þig rjettvísi, hófsemi, meðaumkvun og siðprýði, þá skal ekki heldur auðurinn svipta þig gæfu.

Láttu þjer skiljast af þessu, að hrein og ómenguð farsæld getur ekki hlotnazt nokkrum dauðlegum manni.

Dyggðin er sá skeiðvöllur, sem guð hefur ætlað manninum að skunda, og farsældin er takmarkið; en því getur enginn náð, fyr en hann hefur hlaupið skeiðið til enda, og meðtekið kórónuna í hinum eilífu tjaldbúðum.

# Málverk lífsins.

(Úr brjefi frá föður til sonar á fermingardegi hans).

Jeg óska þess nú helzt af öllu, sonur minn! að þú upp frá þessum degi reynir til af allri alúð, að búa til úr æfi þinni *fagra heild,* sem í öllum deildum samsvarar sjálfri sjer svo vel sem unnt er, og í öllum greinum stefnir að því aðalmiði, *að fullnægja tilgangi guðs, og afreka hvervetna svo mikið gott sem þjer er framast auðið.* Þess vegna skaltú við hvað eina, sem þú áformar til orða eða verka, aðspyrja sjálfan þig þannig: „hvað get jeg nú tekið fyrir mig, sem verða má bæði sjálfum mjer og öðrum að mestu og sönnustu notum?“ og þú skalt ætíð kjósa þjer þau störf, og þær unaðsemdir, sem þú getur verið viss um, að hafi á sjer auðkenni góðra, guði þókknanlegra og gagnlegra athafna! Þú skalt ímynda þjer þessa heild æfi þinnar, eins og *mikið málverk,* sem þú ert að búa til á hverjum degi, og sem þú bætir í á hverju augnabliki einhverjum

kafla, einhverri mynd. Því fullkomnari sem hver kafli er, því fegri hver mynd, því ágætara sem málverkið sjálft verður af þessum uppdráttum, af því að þeir eru bæði vel valdir, og þeim svo haganlega fyrir komið; því framar sem þeir, er veita athöfnum þínum eptirtekt, ekki einungis sjá fegurð þeirra og ágæti, heldur uppörfast líka sjálfir af þeim til góðra og ágætra verka: þess meira er varið í málverk þitt, eða uppdráttinn æfi þinnar, og gleði þín yfir honum verður svo mikil, að mesti listamaður getur aldrei haft aðra eins ánægju af nokkru sínu málverki.

Hafir þú nú byrjað vel og fallega málverk þitt, eða sem er hið sama, æfi þína í æskunni — og hversu ósegjanlega mikið gjöra ekki fyrstu drættirnir til í hverju málverki! — þá íhugaðu, hve ófyrirgefanlegt hirðuleysi það væri, ef þú eigi kostaðir kapps um, að láta hina nýju kafla verða eins fallega, og enda fullkomnari en hina fyrri; allra helzt þegar þú fyrir sakir aldurs og atgjörfis verður allt af betur og bet-

ur fær um það. En hafi illa verið byrjað, eða æsku-árum þínum illa varið, þá gættu þess, hve áríðandi það er að sleppa engu augnabliki, og vanda því betur hina nýju kafla, það er að segja, áframhald æfi þinnar, sem hinir fyrri kaflarnir voru lakar af hendi leystir. Þetta getur enginn byrjað of snemma, nje gjört of kappsamlega; einn ljótur uppdráttur, eða ein syndsamleg athöfn afmyndar svo líf dyggðugs manns, að hann getur ekki annað en angrast í huga, þegar hann minnist á hana; einn fallegur uppdráttur, eða eitt dyggðugt verk ljettir ávallt böli lífsins á þeim, sem það ber, eins mikið að sínu leyti, og verkið sjálft eflir heill meðbræðra hans. Það er eilíft og óraskanlegt lögmál náttúrunnar: „með sjerhverri dyggð eflir maðurinn farsæld sína; með sjerhverri ódyggð hlýtur hann að spilla henni“.

Festu þjer djúpt í huga þennan sannleika, sonur minn kær! og láttu hann vekja og varðveita hjá þjer þetta ágæta áform: *„jeg skal engan dag láta svo hjá líða,*

*að jeg ekki með góðu verki bæti fagurri mynd í málverk mitt“!* Og láttu þá líka þetta áform vera þá myndina, er þú prýðir málverkið með á fermingardegi þínum! Hversu munu þá ekki fagrir uppdrættir þínir í það á æfinni framvegis! Og hversu dýrðlegt allt málverk lífs þíns að lokunum!

---

## Bezta landið í heiminum.

Úti í reginhafi er eyja ein lítil, inndæl og vel um búið. Himinn er þar heiður og fagur árið um kring. Dalir eru djúpir og dældóttir, grundir sljettar og grösugar, akrar fagrir og frjófsamir; allt er þakið ágætustu aldinum og ylmandi blómum. Fjöll eru þar hátignarleg, og fela í skauti sínu ógrynni gulls og gersema. Aldrei kemur þar vetur, svo að eplatrjen og vínviðurinn eru sífrjóf; aldrei ríður þar þruma, er grandi eik í skógi, eða ávexti á akri. Hin blíða náttúra ríkir á eyjunni með móðurlegri ástsemi, hvervetna

veitandi, en aldrei eyðandi; og fram býður hinum sælu eyjabúum í ríkuglegum mæli allt, sem getur gjört þeim lífið ánægjusamt; enda nýtur sjerhver sá, sem á heima á þessari eyju, ævarandi gleði og ánægju. Innbúar þessa sannkallaða Englalands hafa svo mikið frelsi, að ekkert land á hnettinum hefur nokkurn tíma þekkt annað eins; og spillir því hvorki fyrir þeim ofríki hinna voldugu, nje öfund hinna aumu. Og þó ræður meykonungur einn yfir eyjunni með tveim dætrum dáfríðum; og hafa þær allar ótakmarkað vald. Þær eru svo voldugar, að þær gætu, þvert á móti vilja allra keisara og konunga, farið frjálst og taflaust yfir öll lönd jarðarinnar og unnið þau, ef að þær væru ekki svo spakar og hóglátar í lund, að láta sjer nægja þau gæði, sem þær hafa heima hjá sjálfum sjer, og mettu einkis alla fánýta vegsemd og tign. En aldrei hefur neinn enn nú verið svo voldugur, að hann hafi árætt, eða megnað að raska með herskildi friði eyjarinnar; það vakir líka yfir henni til varn-

ar ósigrandi hershöfðingi, útbúinn guðlegum hertýgjum. En hver sem elskar og leitar friðar, honum er aldrei varnað að koma inn í þetta land frelsisins og fagnaðarins.

Þar mun opt koma að fyrir þjer, æskumaður! síðar á æfi þinni, að þú munt leita þjer að öruggu hæli, og finna ekki; þú munt mitt í stormi og stórsjó lífsins lítast um eptir einhverjum bletti á jörðunni, þar sem sorg og gremja niðurbrýtur ekki gleði þína; og svo má fara, að þú hartnær örvæntir og hugsir, að þjer sje eigi unnt að finna frið og ró, fyr en í gröfinni. En þá skaltu spyrja sjálfan þig: „*hvar er eyjan góða, bezta landið í heiminum*"? Þú sjerð hana nú að vísu ekki uppdregna á neinu landabrjefi, og kemst ekki heldur út í hana á neinu hafskipi; en eigi að síður er vegurinn þangað beinn og sljettur, og auðfarinn. Jafnvel þó að þú sjert sjúkur, þá getur þú samt hæglega komizt út þangað, og færð þá aptur heilsu þína, glaðværð og fjör, því að loptið þar

er svo heilnæmt, og vatnið í uppsprettunum svo styrkjandi. Og jafnvel þó að þú sjert fátækur, þá hamlar það þjer ekki heldur frá að komast út í eyjuna; og þar getur þú þá líka eignast óvenjuleg auðæfi í gulli og gersemum.

Því í djúpi þíns eigin ólgandi brjósts liggur þessi eyja — *Hjarta þitt*, og *Auðmýkt* heitir meykonungurinn, en dætur hennar *Elska* og *Von*. *Hugrekki* heitir hershöfðinginn, sem hvervetna varnar, og ávallt sigrar sorg og mæðu, sem eru fornir fjandmenn eyjarinnar. Hingað skaltú þá aptur hverfa — því að þú áttir þar áður heima á sæludögum æsku þinnar — og þú skalt með órjúfanlegri tryggð og hollustu gjörast að nýju þegn drottningarinnar í eyjunni. Þá munu dætur hennar veita þjer allar þær unaðsemdir, sem gjörðu þig sælan meðan þú varst ungur, en sem síðan hafa að eins hvarflað fyrir sálu þína, eins og flögrandi draumsjónir; og hershöfðinginn mun með ósigrandi afli hrinda frá þjer öllu heimsböli, sem sækja kann utan að þjer.

# Ágrip

## *almennustu lífsreglna.*

Láttu skilningarvitin ávallt halda árvakran vörð.

Kappkostaðu að temja þjer glaðværa lund og glaðlegt viðmót.

Hlauptu aldrei íhugunarlaust eptir nokkurri hvöt hjartans, nokkurri nýbreytni aldarinnar, nokkru dæmi annara.

Vertu gætinn og hófsamur í nautn þeirra hluta, sem þörf eða vani lífsins útheimtir til viðurhalds og ánægju.

Láttu aldrei tilfinninguna ráða einsaman, ekki heldur skynsemina; og breyttu hvorki óskynsamlega af of mikilli tilfinningarsemi, nje tilfinningarlaust, hvað hyggilega sem er; áformaðu engan hlut nema þú hafir báðar í ráðum.

Vertu ekki hálfvolgur í neinu, sem þú gjörir, eða hafnar; heldur vertu þar allur og með heilum hug.

Gjörðu ekki of lítið úr mannlegu hyggjuviti, en eigi skaltu heldur ætla því of mikið.

Líttu rjettum augum á atburði náttúrunnar og athafnir manna.

Láttu enga reynslu, enga eptirtekt, engan lærdóm vera þjer til ónýtis.

Kannastu hvervetna við yfirráð andans yfir bókstafnum.

Gjörðu þig aldrei að þræl hleypidóma nje geðshræringa; augun sjeu frjáls, eyrun frjáls, andinn frjáls!

Varkár munnur, varkárt hjarta í umgengni og viðskiptum við alla menn!

Jafnaðu þjer ekki saman við þá, sem lifa í betri og álitlegri kjörum en sjálfur þú, svo að þú spillir ekki ánægju þinni; láttu þjer lynda þín eigin kjör.

Dæmdu aldrei, fyr en þú hefur skoðað málið á allar hliðar; og vertu ekki hlutdrægur.

Gættu hóglætis eins í gleðilegustu og sorglegustu atburðum; og hafðu alla stjórn á sjálfum þjer.

Vertu ekki heimtufrekur hvorki við guð nje menn; og líttu ekki mikið á sjálfan þig.

Skoðaðu orsakir og afleiðingar, hafðu tillit til hvorutveggja, og vertu viðbúinn við öllu.

Sýndu engum manni fyrirlitlegt eða afundið viðmót; kannastu við ágæti og yfirburði annara.

Móðgaðu engan, nje meiddu í orði eða verki, eða með nokkru viðviki; vertu í raun eins og í reynd mannúðlegur og velviljaður öllum.

Dæmdu engan, talaðu ekki illa um neinn, áfelldu engan; tildraðu ekki fram eigin speki, eigin mannkostum.

Vertu viðfeldinn í samræðum, fræðandi og skemtilegur.

Skiptu þjer ekki af þeim efnum, sem þjer koma ekki við í þinni stöðu, nema þú hafir kall og skyldu til þess.

Stundaðu að gjöra sjálfan þig sem hæfilegastan fyrir þá stöðu, sem þú ert í.

Láttu þjer annt um að verða í öllu tilliti sem fullkomnastur, svo að brestir þínir og ókostir spilli sem minnst gæfu sjálfs þín og annara.

## Skynsemin.

Skynsemin er allt eins *opinberun guðs*, eins og ritningin; hún er fyrsta meðalið, hið almennasta og eðlilegasta, sem guð hefur opinberað mönnum með veru sína og vilja, sem hann vill kenna þeim með dyggð og guðsótta, til þess að gjöra þá hæfilega fyrir þá sælu, sem hann hefur ætlað þeim bæði í þessu lífi, og hinu ókomna. Ef vjer hefðum ekki skynsemina til að leiðbeina oss, gætum vjer ekki þekkt sannleika frá villu, rjett frá röngu, dyggð frá lesti, rödd guðs frá röddu lýginnar; ekki gætt tignar vorrar og yfirburða yfir hin óæðri dýr jarðarinnar; án hennar gætum vjer ekki þekkt, skilið, eða fært oss í nyt nokkra opinberun guðs, hve æskileg og ómissandi sem hún væri fyrir oss, og aldrei orðið vissir í trú vorri af lifandi sannfæringu hjartans. Án skynseminnar hlypum vjer eptir sjerhverju villuljósi, og værum leiksoppur í hendi sjerhvers svikara, villumanns og hneigslara. Í stuttu máli: hún er *ljós*, hún er *auga* sálarinnar; og hvað dapurt, sljóft

og glýjufullt sem augað kann að vera, þá er þó miklu betra að hafa það, en að vera með öllu sjónlaus.

Ef þú vilt, æskumaður, sneiða hjá hinum hættulegu ógöngum villunnar og hjátrúarinnar, ef þú vilt komast á fram leið þína í lífinu óhultur og öruggur, þá skaltu meta *skynsemina*, eins og aðalágæti mannsins, og láta þjer annt um að gæta þeirrar tignar, sem hún veitir þjer! Þú skalt óhikað hafna öllu, sem stríðir á móti því, er skynsamleg íhugun álítur satt og rjett, hversu álitlegt sem það kann að vera að öðru leyti. Þú skalt tortryggja allt, sem þú annaðhvort ekki getur gjört þjer neina hugmynd um, eða þá ekki nema einhverja óskýra hugmynd, svo að þú verður að byggja allt á óljósri tilfinningu, á þínu eigin eða annara áliti, á reykulum hugmyndum ímyndunarinnar. Þú skalt tortryggja allt, sem ekki þolir að láta skoða sig og rannsaka hlutdrægnislaust og með köldu blóði; allt, sem felur sig í myrkri óskiljanlegrar ráðgátu. En um fram allt þá vertu tor-

tregginn í þeim efnum, þar er menn vilja gjöra skynsemina sjálfa tortryggilega fyrir þjer, og fá þig til að fara ekki eptir ráðum hennar. Sje það eitthvað í raun og veru skynseminni of vaxið, sem menn eru að gylla fyrir þjer, þá kemur það þjer alls ekki við, og þú þarft ekki, og átt ekki, eins og skynsamur maður, neitt að skipta þjer af því. En ef það eru nytsamleg og áríðandi sannindi, sem um er að gjöra, þá hljóta menn að geta rannsakað þau, fundið ástæður fyrir þeim, og skilið þau að minnsta kosti að nokkru leyti. Þú skalt fylgja sjerhverjum ljósgeisla á vegi sannleikans, svo lengi sem þú getur gjört sjálfum þjer grein fyrir hverju því fótmáli, sem þú gengur á honum, að minnsta kosti getur komizt þangað aptur, hvaðan þú gekkst út; en hættu þjer aldrei út í það myrkviðri, þar sem þú við hvert fótmál fjarlægist meir og meir rjettum vegi, og lendir loks í endalausum ógöngum. Lítill sannleiki, sem þú skilur vel, og sem skynsemin segir þjer, að sje veruleg sannindi,

er miklu meira verður, og getur betur leiðbeint þjer, en nokkur leyndardómsfull speki, sem þú getur ekki fundið vit nje skilning í, og þar sem þú þá verður að láta skynsemina ráfa eins og í myrkri. Leitaðu ávallt *hins,* þá getur þú haldið tign þinni óskertri, og villuljós hjátrúarinnar skal aldrei blekkja þig.

---

## Nokkur áminningarorð og blessunaróskir yfir börnum á fermingardegi 1846.

1.

Vertu gætinn á þeim vegi, sem þú gengur nú fram á, því úr sæluhöfn æskunnar leggur þú út á ólgusjó lífsins! Vak þú þess vegna og bið, að hann, sem ræður himni og jörðu, hasti á storminn og stórsjóinn, svo að þú ekki fallir í örvæntingu og freistni, og líðir skipbrot á sálu þinni!

2.

Láttu orð Krists búa hjá þjer ríkug-

lega og hyggilega! Því ef þú hefur það iðuglega og rjettilega um hönd, þá er það ljós á vegi þínum, sverð í baráttu þinni, skjöldur þjer til varnar, lampi fóta þinna í myrkri lífsins, og leiðarstjarna á nóttu dauðans.

3.

Minnstu þess, að allt hold er eins og gras, og ágæti mannsins eins og blóm grassins! Grasið fölnar og blómið fellur út af. En til er það ágæti, sem aldrei spillist; það er vegsemd þeirrar sálar, sem heldur sáttmála góðrar samvizku við guð. Drottinn gefi þjer náð til að höndla hana!

4.

Aldrei hefur nokkur maður sjeð guð; en ef að þú lifir í kærleikanum, þá lifir þú í guði og guð í þjer; og þú skalt finna máttinn og huggunina frá honum í hjarta þínu, máttinn guðs í freistingum þínum, og huggun hans í raunum þínum!

5.

Sælir eru hreinhjartaðir! Guð gefi þjer

náð til að geyma framvegis þennan dýra fjesjóð æsku þinnar! Hann hjálpi þjer til að varðveita hann óflekkaðan af heiminum! Hann veiti þjer náð til að skilja við heiminn með hreinu hjarta, og hreinhjörtuðum að mæta fyrir sjer!

6.

Guðs vilji ræður dögum lífsins; en guð láti þig á hverjum degi komast nær og nær ríki sínu! Guðs vilji ræður kjörum lífsins; en guð láti bæði sorg og gleði snúast þjer til góðs! Lærðu að vera ánægður, hvort sem guði þókknast að veita þjer mikið eða lítið! Vertu að því leyti framvegis, eins og barn í lund, einnig þegar þú fyrir sakir aldurs og vizku ert kominn í tölu hinna fullorðnu!

7.

Drottinn hefur þegar lagt þjer mikla blessun til handa, og jeg megna engri nýrri við að bæta; en jeg bið þess, að hann láti þig framvegis halda blessun sinni. Hann varðveiti þig eins og sinn augastein! Hann láti hinar þungbæru raunir

lífsins aldrei hitta þig, og freistarann aldrei fá inngöngu í hjarta þitt! Drottinn láti ásjónu sína lýsa yfir þig, og fylli brjóst þitt friði sínum!

8.

Drottinn blessi trú þína, svo að hún beri ríkuglega ávexti! von þína, svo að hún fylli allar skynsamlegar óskir þínar! kærleika þinn, svo að hann ávinni þjer hylli manna, og leiði þig að lokum í samfjelag guðs sjálfs!

9.

Láttu þjer annt um, að hafa á þjer gott mannorð hjá meðbræðrum þínum, því að þú skalt hafa betra af því, en af miklum auð! En kauptu þó aldrei hól manna á kostnað góðrar samvizku! Álíttu ekkert þvílíkt hnoss, eins og að hlaupa skeiðið með glaðværum anda og í ótta drottins!

10.

Gleð þig í æsku þinni, og vertu glaðvær á hinum góða degi! En komi einhvern tíma yfir þig óblíður dagur, þá láttu ekki hugfallast! því að hvorirtveggi dag-

arnir koma frá guði; og ef að hann er með þjer, þá skaltu hafa blessun af báðum!

11.

Vjer mundum, vinir þínir og vandamenn, syrgja þig í sjö daga, ef dauðinn svipti þjer burt frá oss; en harma mundum vjer þín vegna alla vora æfidaga, ef sú óhamingja henti þig, að rjúfa loforð þitt! Drottinn styrki þig þess vegna til að gæta vel skírnarsáttmála þíns, svo að vjer megum ávallt með fögnuði minnast á þessa stund!

12.

Sá sem var með Pjetri á sjónum, svo að hann ekki sökk svo lengi sem hann trúði, hann sje líka og veri með þjer! Láttu þá trú, sem þú hefur nú játast undir, hvervetna sýna sig í öllum þínum athöfnum: þá skaltu ekki sökkva, þó að öldur mótlætinganna rísi á móti þjer.

13.

Lífið, sem guð hefur ætlað mönnum hjer í heimi, hefur tvær hliðar, aðra bjarta og aðra dimma; guð láti hina björtu hlið þess

brosa á móti þjer alla þína æfidaga! En sæki þig heim sorg lífsins, þá láti hann þig finna í orði sínu þolinmæði, huggun og styrkleika!

14.

Guð, sem hefur með skírninni gjört þig að barni sínu, hann varðveiti þig fyrir öllum þjáningum! En þókknist honum að reyna þig með þeim, þá láti hann þig einnig muna til þess, að þú ert hans barn; og sú endurminning veiti þjer styrk til að bera byrði þína til enda!

15.

Þú ert dýru verði keypt! Vegsamaðu hann, sem með lífi sínu keypti þig sjer til handa! Líf þitt er hans eign: helgaðu það þá honum til þjónustu! Elskaðu hann, sem elskaði þig að fyrra bragði: þá skaltu bæði fyr og síðar teljast með hans útvöldu!

16.

Á góðu dögunum hættir mönnum við, að muna ekki eptir hinum vondu dögum, og á vondu dögunum gleymast mönnum auðveldlega hinir góðu. En þú skalt á-

vallt hafa þjer hvorutveggi í minni! Þá ofmetnast þú hvorki af meðlætinu, nje yfirbugast af mótlætinu.

17.

Þegar þú gjörir guði heit, þá fresta ekki að efna það; því að betra er að lofa engu, en að lofa og efna ekki. En hann, sem allar góðar gjafir koma frá, styrki þig til að standa stöðugur í trú þinni, því að þetta er hið bezta, sem manninum getur auðnast!

18.

Endi vegarins er betri en upphafið. Því upphafið er optast andstreymi og mæða, en endinn hvíld og endurnæring! Líttu þess vegna iðuglega til endans; og þegar leiðin gjörist torsókt, þá huggaðu þig við hvíldina í hinum eilífu híbílum!

19.

Kvíð þú engu fyrir það, þó að þú verðir talinn meðal hinna fátæku! Því svo lengi sem þú varðveitir góða samvizku, stöðugt traust á guði, og framkvæmdarsaman kærleika, þá áttu þar þrjá dýrgripi,

sem allir fjársjóðir heimsins fá ekki jafnast við.

20.

Farðu ekki villur vega: guð lætur ekki að sjer hæða! Það sem þú niður sáir í æskunni, það skaltu uppskera þegar þú verður gamall! Hafðu þjer það stöðugt í minni, og sáðu því einu í veginn fyrir þig, sem þú getur haft fögnuð af, þegar uppskerutíminn kemur!

---

## Tign mannsins.

Skynsemi, frjálsræði, starfsemi, sífeld framför, ódauðlegleiki, sambandið, sem maðurinn er í við guð, staðan, sem hann þjónar í á jörðunni, atgjörfi hans og athöfn öll í henni — sjá, í þessu er fólgin *tign mannsins!* Þetta er það, sem gjörir hann svo ágætan!

Maðurinn er guðs eptirmynd; hann er afsprengi hans, og á kyn sitt að rekja til hans; enda ber hann með sjer augljósan vott um uppruna sinn frá guði og samfjelag sitt við hann. Skynsemi hans er geisli

guðlegrar speki; atgjörfi hans afrás guðlegrar fyllingar; starfsemi hans eitthvað svipað guðlegu almætti; hæfilegleiki hans til sífeldra framfara vegur til að verða guði æ líkari; ódauðlegleiki hans ímynd ævarandi tilveru hins Eilífa, og meðal til eilífs samfjelags við hann. Svo opt sem maðurinn leitar að og íhugar sannleika; svo opt sem hann áformar og afrekar góðverk; svo opt sem hann aðhyllist og eflir fegurð og reglu; svo opt sem hann lætur gleði og ánægju leiða af sjer fyrir aðra: — svo opt hugsar og vill og vinnur hann á líkan hátt og guð; svo opt gjörir hann vilja skapara síns og föðurs; svo opt eflir hann augnamið hinnar æðstu veru; svo opt finnur hann með sjer hreina unaðsemd guðlegrar sælu; og því betur og því optar sem honum auðnast að gjöra þetta, þess líkari er hann guði, þess skærar skín guðs mynd á honum, og þess síður getur nokkur neitað honum um hans háleitu tign og uppruna. Guð talar þá og verkar eins og á sýnilegan hátt sjálfur í honum: lætur hann

í sinn stað bera sannleikanum vitni, kunngjöra fyrir öðrum vilja sinn, styðja málefni dyggðarinnar, blása hugsjúkum huggun í brjóst, hella hugsvölun í hjörtu hinna harmþrungnu, rjetta nauðstöddum hjálp og aðstoð, hungruðum fæðu, veikum styrkleika; hann prýðir mannheiminn með honum, og lætur hann í sinn stað efla þar gleði og ánægju lífsins. Að vera nú þvílíkt verkfæri í guðs hendi; að vera svo líkur honum, sem er algjörður; að lifa, vera og hrærast þannig í guði og fyrir guð á jörðunni, því skyldi það ekki gjöra manninn ágætan og í mesta máta tignarlegan?

En virðið nú líka manninn fyrir yður, eins og hann sýnir sig að *ytra áliti;* skoðið *stöðu* hans á jörðunni, ásigkomulag hans og atgjörfi allt í samanburði við hin dýrin, og sjerhvað annað, sem er í kringum hann, þá skuluð þjer ekki heldur í því tilliti geta borið á móti tign hans. Sjáið, hversu reisuglegur og svipmikill maðurinn er meðal hinna óæðri dýra, sem eru í kringum hann; hversu allt auðkenn-

ir hann frá þeim, og upp hefur hann yfir þau; hversu allt vottar, að hann er herra dýranna, og ráðsmaður skapara síns á jörðunni! Hversu hann sjer glöggt yfir allt, sem er í kringum hann, og getur aðgreint það, flokkað það, skynjað það; stundum horft með lotningarfullri undrun upp frá jörðunni til himins, og svo aptur litið niður til jarðarinnar með inndælum fögnuði; hversu hann kemur við allt, sem lifir og hrærist í kringum hann, með tilfinningarsömu hjarta; hversu hann tekur með næmum og viðkvæmum tilfinningum á móti þeim ótal unaðsemdum, sem streyma að honum úr öllum áttum, og hversu hann verður gagntekinn af hinum sælu áhrifum elskunnar og lotningarinnar! Og maðurinn, sem er, gjörir og getur allt þetta, hann skyldi ekki bera með sjer mikla tign, ekki þykja ágætur í augum guðs og allra skynsamra vera?

Æ, svo lærðu þá, æskumaður, að dæma manninn og dæma sjálfan þig rjettilega! Lærðu að meta hann og meta sjálfan þig, eins og sannleikanum er samboðið! Þú-

skalt aldrei líta svo á veikleika hans og breiskleika, að þú ekki líka takir eptir því, sem er ágætast og bezt til á honum, og á sjálfum þjer! Láttu þjer ekki koma til hugar að gjöra lítið úr manninum, og ætla með því að upp hefja guð, herra hans og föður; og þegar þú talar um spillingu hans og eymd, þá gleymdu því ekki, að vanvirða skepnunnar getur aldrei vegsamað skaparann; gleymdu því aldrei, að dimma er ekki algjörlegt myrkur, að skuggi vitnar um ljós, og mikil hrösun um mikinn hæfilegleika; að fyrsta stig lífsins er ekki lífið allt; að valt og veikt barn getur orðið að manni, og sem maður leyst mikið af hendi; og að guð, sem leit á allt, er hann hafði skapað, og lýsti yfir því velþókknan sinni, muni líka leiða allt til sinnar ákvörðunar, og láta það ná sinni fullkomnun.

---

## Eyjan.

Fjærri öllum byggðum löndum liggur eyja ein umflotin af veraldarhafinu, fögur og

frjófsöm. Manna byggð er á henni; en af því að eyjamenn kunna ekki til siglinga, þá geta þeir engin mök átt við aðrar skapaðar verur, og aldrei stígið fæti sínum út fyrir eyjuna. Aldrei sjest heldur nokkurt skip undir seglum nálægt hennar afskekktu ströndum; nema tvær ókennilegar og undarlegar ferjur hafa frá aldaöðli stöðugt og jafnt, en hvor í sín lagi lent við þær. Önnur ferjan siglir með alla vega litum seglum, og leggur austanvert að eyjunni; en hin hefur svört segl, og leggur að henni vestanverðri.

Úr fyrri ferjunni kemur æfinlega í land unglegur maður og brosleitur, og leiðir sjer við hönd lítinn nýlendumann; hann fer með hann inn í hús einhvers eyjabúans, og víkur svo þegjandi í burt. En vel er gestinum nýkomna tekið af þeim, sem fyrir eru; þeir halda hátíð honum til heiðurs, og veita honum bezta herbergi og allan beina; og upp frá því er hann þar eins og heimilismaður, og borgari eyjarinnar. En hann, sem talar ókennda

tungu, fellir sig ekki fyrst við landsvenjuna og háttsemi eyjamanna, og lærir ekki fyr en eptir langan tíma tungumál sinnar nýju ættjarðar. Þá man hann ekki heldur neitt af því, sem fram við hann hefur komið, síðan hann kom fyrst á eyjuna; og aldrei getur hann, nje nokkur annar, sem á eyjunni lifir, skýrt frá því, hvaðan hann er kominn. Með þessum hætti bætast nú eyjunni ávallt innbúar.

Allt öðruvísi stendur á hinni ferjunni. Henni stýrir aldraður maður, alvarlegur. Hann kemur aleinn; en, eins og unglegi maðurinn, gengur hann líka inn í einhvern bæinn á eyjunni, og heimtar með þegjandi bendingu einn af heimilismönnunum til fylgðar með sjer. Það tjáir ekki annað, en að gegna honum á augabragði — hvort sem það þykir ljúft eða leitt — því að einhver heimugleg öfl gjöra sjerhverja mótstöðu árangurslausa; og enn hefur engum, sem til ferðar var kvaddur, auðnast að fresta burtferðinni um eitt augnablik. Harmur og tregi fyllir það hús, sem þessi

ískyggilegi maður kemur inn í; því að aldrei kemur neinn hinna burtkölluðu aptur til eyjarinnar; og niðsvört þoka felur ferjuna fyrir augum manna, óðar en hún leggur frá landi.

Stundum ber líka saman fundum beggja ferjumannanna í einu og sama húsi; þá heilsast þeir eins og bræður, og alvarlegi maðurinn tekur þegar burt með sjer að skilnaði nýlendumanninn litla, og flytur hann í trygga höfn.

Sjaldnar ber það við, að nokkur af eyjamönnum verði leiður á lífinu, og bjóðist ótilkvaddur til samfylgðar honum. En komi það fyrir, þá tekur ferjumaðurinn honum alvarlegar, en ella; og svipur hans spáir þeim manni fremur óskemmtilegri ferð.

Þannig hafði staðið á eyjunni þegar um langa æfi. Margir mannsaldrar voru komnir og aptur liðnir á þennan hátt; og enn vitjuðu ávallt eyjarinnar, og viku aptur burt frá henni hinar undarlegu ferjur.

Kynlegar sögur höfðu að vísu lengi

gengið um þessar ferjur á meðal eyjabúa; en af því að engin þeirra hafði neinn vissan fót fyrir sjer, þá gátu þær ekki huggað til hlítar þá, sem harmandi stóðu eptir á eyjunni, þegar þeir áttu ástvinum á bak að sjá. Hvor efinn og óvissan á fætur annari gjörði þeim órótt í huga; og flestir biðu með skelfingu komu hins alvarlega og aldraða ferjumanns.

Þá kom loksins einu sinni á land í eyjunni úr ferju brosleita mannsins útlendingur einn; hann tók sjer þar herbergi, eins og aðrir, en var þeim öllum frábrugðinn í athöfnum og athæfi.

„Jeg þekki,“ sagði hann undir eins og hann gat gjört sig skiljanlegan fyrir eyjabúum, „jeg þekki vel staðinn, hvaðan jeg er kominn; líka veit jeg — þegar stund mín er komin — hvort jeg fer. Herra eyjar yðar og veraldarhafsins sendi mig til yðar — það eru líka sendiboðar frá honum, ferjumennirnir, sem flytja yður hingað, og kalla yður aptur í burtu —. Hann vill ekki, að þjer hræðist lengur

ferðalagið yfir hinar dimmleitu öldur með alvarlega ferjumanninum; miklu heldur skuluð þjer óhræddir og glaðir bíða komu hans eptirleiðis. Takið þess vegna eptir því, sem jeg segi yður: lítið þarna upp í himinhvolfið, og skoðið dílana litlu, sem ljóma þar uppi. Það eru eyjar, líkar yðvarri, en stærri, fallegri, frjófsamari, dýrðlegri. Yfir þeim öllum — og hvor getur talið þær? — og yfir gjörvöllu hafinu ræður voldugur konungur, herra minn og herra yðar. Langt í burtu í ómælanlegri fjarlægð situr hann sjálfur í ljómandi höll á dýrðlegustu eyjunni; þangað safnar hann til sín öllum beztu og dyggustu þegnum sínum úr hans óendanlega ríki, og hefur þeim búna þá sælu, sem skilningi yðar er of vaxin, enda verður eigi heldur útskýrð með nokkrum orðum. En inn í húsum yðar eru fest upp spjöld úr gulli; á þeim finnið þjer allt það ritað, sem þjer verðið að gjöra, til þess að geta komizt þangað, hvar ævarandi sæla bíður yðar.

„Skýrt og skært skína fyrir yður á þeim spjöldum, til staðfestingar öllu því, sem jeg segi yður, boðorð yðar dýrðlega konungs. Sælir eruð þjer, ef þjer látið þau leiðbeina yður! þá flytur yður hinn alvarlegi ferjumaður frá eyju yðar á aðra miklu fegri; og frá eyju til eyjar komist þjer æ nær og nær takmarki yðar“.

„þannig flutti yður áður hingað frá fjarlægum stað hinn brosleiti ferjumaður; en eigi munið þjer nú neitt eptir yðar fyrri vistarveru; því að ákvarðáð er það af vísdómsráði herra yðar, að hið umliðna skuli vera yður hulið, en að þjer skulið að eins geta sjeð yfir hið nærverandi, og horft með gleði fram á hið ókomna. Lifið þess vegna glaðir í voninni, og bíðið óhræddir eptir ferjumanninum, sem kallar yður burt frá þessari eyju á aðra fegri til ástvina yðar, sem á undan eru komnir“.

„þeir einir hafa orsök til að skelfast af komu hans, sem ekki skeyta orðum mínum, eða gullspjöldunum í húsum þeirra; þá eina flytur hann afleiðis á fjarlægan og óbyggilegan stað.“

Margt annað ágætt mátti heyra af munni þessa undrunarverða útlendings. þeim varð líka starsýnt á hann. Margir fundu spjöldin, og skýrðu þau upp fyrir sjer, eins og hann sagði fyrir, og fögnuðu komu hans; en margir vildu líka ekki trúa orðum hans, hirtu ekki einu sinni um að leita letursins, og lifðu eins og áður. Sumir lögðu enda á hann hatur,

eins og einhvern óróamann, álösuðu honum sem svikara, og vildu hafa hann brott úr eyjunni.

Þess vegna þegar alvarlegi maðurinn kom aptur á land í eyjunni, þá leiddu þeir útlendinginn á móti honum; — ferjumaðurinn gamli tók brosandi í hönd hans, eins og þeir væru gamlir kunningjar, og leiddi hann að ferjunni, sem hinn stje glaður upp í.

„Lifið vel!“ Kallaði hann þá, er þeir ýttu frá landi; „jeg fer nú aptur til hans, sem mig sendi, og bíð þar eptir öllum góðum innbúum eyjarinnar. En ekki reiðist jeg yður, sem ekki vilduð kannast við mig; miklu heldur ætla jeg að biðja konunginn að fyrirgefa yður, og svipta ekki náð sinni af yður.“

Margar aldir eru nú liðnar síðan að þetta gjörðist; en allt af blómgast og blessast meir og meir minning þessa útlendings — æ skærar og skærar skína fyrir augum eyjabúa hin gulllegu spjöld, og hinir trúuðu eigendur þeirra horfa með fögnuði á bát ferjumannsins, sem flytur þá þangað, er hinn ástríki og hógværi útlendingur sagði þeim fyrir.

---

## ATHUGAGREIN.

Jeg efast ekki um það, ungu vinir! að flestir af yður skilja, hvað þessi ágæta dæmisaga á að þýða, og að þjer þannig getið haft þau not hennar, sem til er ætlað; en skyldu þeir vera nokkrir,

sem eigi geta gjört sjer grein fyrir ýmsum atriðum hennar, þá læt jeg fylgja þessar útskýringar:

Veraldarhafið er hið auða, ómælanlega lopthaf, og eyjan, jörðin sem vjer búum á.

Ferjan með marglitu seglunum táknar fæðíngu mannsins í þennan heim; eins og hin með dökkleitu seglunum burtferð hans úr þessu lífi.

Hvor útlendingurinn muni vera, er auðsjeð að er drottinn vor Jesús Kristur.

Dílarnir björtu eru stjörnurnar

Hinn voldugi konungur sjá allir að er guð, og gullspjöldin guðs orð.